# Islendsk Urtagards Bok

Søfnud og samannteken

# Bændum og Alþydu

a Islande

til reynslu og nota

af

**Olafe Olafssyne,**

Philosophiæ Baccalaureo.

---

Svo eru byggende sem i bag koma.

---

Prentud i Kaupmannahøfn
af Paul Herman Höecke.




1770.

Da jeg er ombedet, at skrive et Par Ord til denne Bogs Recommendation, saa har jeg derfra ikke villet undslaae mig, særdeeles, naar der ved dette Skrift, hvilket jeg med Fornøyelse har giennemlæst, end meere kunde opnaaes det Øyemærke, samme sigter til, at nemlig det mig kiære Islands oeconomiske Tilstand endog i dette Stycke kunde vorde forbedret; I hvilken Hensigt jeg ønsker, at den ærværdige Geistlighed i dette Land med Deres Forord og Exempel, saavel ville opmuntre, som foregaae dem, de have at omgaaes med, at denne med Fliid udarbeydede Bogs Indhold maatte faae Indgang, og efter den foreskrevne Maade komme i Drift hos mange. Kiøbenhavn den 26 Febr. 1770.

L. Harboe.

Imprimatur
C. G. Kratzenstein, Dr.

Deres Excellence
Høy- og Velbaarne Herre

# Hr. Joachim Otto Schack

Ridder, H. K. M. Geheime-Raad, Kammerherre, forste Deputeret for de Kongelige Financer etc. etc.

Som og

Den Høyvelbaarne Herre

# Hr. Lauritz Andreas Thodal

Hans Kongelige Majestets til Danmark og Norge etc. Hoystbetroet Stiftbefalings-Mand over Island og Færoe etc.

## Mine Naadigste Høystbydende Herrer!

Høy- og Velbaarne Hr. Geheime-Raad!

og

Høyvelbaarne Hr. Stift-Befalingsmand!

Naadigste Høistbydende Herrer!

Det høystpriselige Hiertelaug til mit vanſmægtige Fæderneland, den uforlignelige Kiærlighed til Kongen, den utrætte Aarvaagenhed, Forſorg og Iver for alle

alle Hans Undersaatters sande Vel i Almindelighed, ja, den ugemeene Indsigt i Videnskaberne, og med et Ord, de høye Personlige Egenskaber og glimrende Dyder, som Deres Excellence og Deres Høyvelbaarenhed samtlig besidde, ere de bevægende Grunde, hvorfore jeg underdanigst har understaaet mig til at sætte saa Gudeligsindede Menneske-Venners Høye Navne foran paa denne korte Afhandling om Haugedyrkningen i Island, forfattet til mine

Landsmænds, de ukyndige Is-
landske Bønders Eftertanke. Jeg
nægter ikke, at Afhandlingen
jo vel kan ansees for ufuldkom-
men, som den allerførste der i
sit slags, iført den Islandske
Dragt, har seet Dagens Lys; dog
indeholder den de almindelige
Regler angaaende de Madurt-
ers Behandling og Fremavl,
som derudi findes anførte, samt
deres Huusbrug og Lægedom,
alt efter den Danske, Norske og
Svenske Læremaade, som jeg
underdanigst formeener skal paſ-
ſe

se sig, om ikke paa alle, dog de fleeste Hauge-Urter, i Betragtning af Jordens og Luftens Beskaffenhed i Island. Vel maae denne Videnskab kaldes en Praktisk Videnskab, ligesom andre, som ernære og opholde det menniskelige Kiøn; Men som Gud og Naturen har sat den Danske Sælund en vis Strækning og Grændser, saa har og Skiæbnen hidtil foreskrevet mig, og de af mig giorte Jorddyrknings Forsøg det samme Maal. Tilgiver derfor Naadigste Herrer! den

 Dri-

Dristighed jeg tager mig til, herved at fremfære den første Grøde af en forkiølet Hiærne, der allene ved Deres Excellences og Deres Høyvelbaarenheds milde Diekast kan opvarmes for i Gierningen at udreede noget betydeligere til mit Fædernelands Fremtarv og Nytte i Eftertiden, udi hvilken Forhaabning henlever

Deres Excellences
og
Høyvelbaarendheds

Kiøbenhavn
den 6 Martii 1770.

Underdanigste allerlydigste Tiener
Forfatteren.



# Formaale til Lesarans.

Serhver sꜳ er vill færa ser i nyt Guds gꜳfur, mꜳ grangæfelega athuga nꜳtturunnar edle og ꜳsigkomulag. Einn sio-madur kappkostar alltid, ef þorf geriz, ad sigla sem næst vinde, svo hann nꜳe þvi fyrisetta takmarke, yfir vegar loptsins tilstand og sky-

ianna roas, einnig hvar hann staddur er oa hverium hellst tima, og s. f. v. Peir oa lande bua hafa og eina vissa adferd i ollum sinum athofnum, og fylgia naatturunnar straume, er lætur sig leida af skilningsfullum dyrum. Po er þesse adferd miked olik, þar ed hvert land biargaz svo ad segia oa sinar eigen spitur. Margir hafa i fyrstunne loated ser nægia med þad sem sioalf naatturan godfuslega og eptir eigin vild utdeilt hefur, allt til þess þeirra naabuum tok ad vaxa fiskur um hrygg, og urdu feitir af iardarinnar briostum, sem med konst og ervide hafde lenge dyrkud vered.

Pess hoattar dæme hafa visad sig hioa flestum þiodum þott nu um stundir

seu

seu vitrar og velsidadar, og hafe odlaz þaa fegurd og fridleika, er naatturan lenge hafde frambodeð. Os alleina, godir Landsmenn! sem buum ytst undir þvi temprada heimsskaute, og vid jadar og merke þess kallda himin belltis, skortir þessa pryde, og maaske nockrir vilie skiota skulldinne uppaa forfedur vora, sem þaa er forsomad hafa ad innleida utlendska sidu til upphelldesins friofgunar, hvert ad nockru leite og svo er vel grundad, þott þeim syniz nockur vorkunn af þvi þeir sifellt idkudu sig i fornum frædum, fyri hverra rit og skraasetningar ver erum þeim miked skylldugir.

Þessi olld er þaa, godir Landsmenn! sem upplokið hefur margra augum, oa

hverre Heimsspekin, vitskunnar modir, stendur i fullum bloma; jaa, allar lærdoms listir eru uppstignar til fiallsins Parnassi tinda; laatum oss þvi, hver eptir þvi sem megnugur er, leidretta þad er hinum var aafaatt. Øllum þiodum hefur i fyrstunne torvelldt genged ad utrydia þvi gamla surdege, og aptur i þess stad innleida nockud nytt, þo gott og gagnlegt vered hafe. Þess hins sama eigum ver von, og þvi framar sem faatæktin amar oss meir enn odrum þiodum; þo ef vilienn er godur, verdur ætid nockud aagengt, einkum ef einn hiaalpar odrum med raad og daad, hversu veikir sem kraptarnir eru, eptir hinu gamla ordtæke: Viliennn dregur hwalft hlass.

Til ad semia þenna bækling, hefe eg styrkt mig vid nockrar Svenskar, Norsk-ar, Þydskar og Danskar bækur, og fatt eitt tillagt sem heyrt, og numed hefe af eigen reynslu: hann er ei skrifadur fyri þa er fullnuma eru i þessu starfe, edur sialfir mææske vita betur, helldur einungis fyri bændur og vidvæninga, og þa er læta ser um munn fara, ad þeir einga ævisan fæe um þad er einum Urtagardsmanne tilheyrir ad vita. Þau Donsku og Latinsku Urtanøfn syndiz mer naudsynlegt til ad setia, svo þeir sem girnaz, kynne ad beidaz og ødlaz þeirra retta fræ hia Utlendskum. En vegna þess oss Islendingum veitir oftast torvelldt ad tala framande tungur, og Donsku ordin verda stundum biegud meir enn skyllde, þa hefe

eg dirfst ad smida nofn Urtanna af voru modurmaale, lǫgud eptir þeirra eiginlegleikum, edur þeim Donsku edur Latinsku nofnum. Sieu nockur til aadur, uppaa þær sem eg hefe nafn gefed; hvad mer þo ecke er vitanlegt, þaa eiga min nysmidudu ad rekaz i utlegd nema betre seu þeim gomlu, annars vona eg þau verde i log leidd; þvi eingu vardar hvad Urtin heitir, ef hun alleina þeckiz af sinum elskurum.

Til Maalverks Tablanna er visad i bæklingnum, og þar hiaa ritadar þeirra skiringar greinir. Lækninga kraptur og husnot hverrar Urtar eru skraad aa sinum tilheyrelegum stad, svo og hverneg tilreidaz skulu. Fyri frammande glosum

og talshaattum, ſem kynnu ad villa og trubla almuga menn, hefe eg ſem meſt gat, teked mer vara. Eg veit vel ad ſumir meina, ad eingu byrie ad verda ilios leidt nema þad i allan maata ſe full-komed, og ſamſinne eg þeſſu, ef ſtadiz getur; enn ſpursmaal: mundu Lærdoms liſtirnar vera ſtignar ſvo haatt aa vorum dogum ef allir hefdu bedid þeſſa maals, og ei ervidad hver eptir ſinu megne, eptir komendunum til lettirs? eg ſegi nei. eda eru menn ecke ſkapadir til þeſs, ad einn ſkule betra og lagfæra þad er annar vit minne hefur fraagenged og vidſkiliz, ſem verdur ad godu gagne. Þad ſem þeir gomlu hafa ſkrifad, þo ſumt ſe litils meted, er ſaa grunnvollur, ſem ver byg-gium uppaa.

Kærir Landsmenn! eg iata ad þesse bæklingur er o-fullkominn, og þad hid fornkvedna sannaz a mer, ad faair eru smidir i fyrsta sinne; samt sem adur oska eg hann mætte verda ydur til godra nota, og þvi helldur sem stærre er naudsyn til, ad Urtagardar og þeirra avaxta not yrdu almennare a Islande.





# Fyrste Capitule.

## Hvar og hverneg einn Urtagardur skal byggiaz.

§. 1.

Einn Urtagardur, hvert sem helldur byggiaz skal til Matar-urta, edur annara dælegra blomstra friosgunar, utkrefur eina vissa nidur-radan, sem Nattúrunne er samqvæmust, og er innefalen i eptirfylgiande greinum.

1. Skal Urtagardurinn byggiaz heimmeigen vid Bæinn sem er i hlie fyri Nordanvindum, þad er mot Sudre, land-edur utsudre, epter stedu attar og landslage: han skal vera



ad hæd þriaır edur hauf þridia alin, en ad lengd og breidd sem iardar dyrleike er til.

2. Þeim er efne og mannskap hafa er rædlegt ad hlada gardinn af eintomis steinum, med þurru slye edur Smaa-þaange a millum, þar þvi verdur vid komed; hinir er ei fa þvi orkad, plante hann af birke, reini edur Bydi, sem allvida er brukanlegt, þo skal askvisti leggiaz millum hverrar hrislu, hellst medan ungar eru. Til ad spara kostnad og fyrirhøfn hafa sumir fyrst hladed gardinn af torfe og griote hallfra annarar alnar hæfan, stunged ædur greindum hrislum nidur i gardinn og fliettad saman a liminu med askviste edur fiallhrapa.

3. Laata fer allir þeir ed byggia Kaalgarda umhugad vera ad grundvøllurinn se sliettur, svo vatned naae ei i sæding unne ad kesia þær urter sem plantadar eru a lægra stad, ne helldur ofmykill Solar hiti brenna hinar er hærra standa. Þo veit eg dæme til ad grundvøllurinn hefur hallaz, enn þa gera menn ræsi i gegnum gardinn svo vatned gete fraarunned. Naudsynlegt er og ad rennande vatn, stødu

tiorn

tiørn edur brunnar seu i nænd vid Urtagardinn til ad vekva hann i ofmiklum þurkum.

4. Einkum er vel adgætande Jardarinnar æsigkomulag, þar hun sem ein modir veitir bædi triæm og Urtum sædu og forsorgun allt til uppskern timans.

Þeir yngri Næturu spekingar hafa adgreint Jørdina i tvenn slags høfud tegundir *)

A 2 og

*) Margir hafa leitaz vid ad rannsaka Jardar tegundanna eigenlegleika, og lokfens fyrir Chemien ad myklu leite nææd þvi fyri setta takmarke: medal hverra þeir Svenstu synaz hafa vered einna far sælastir, sem siæ mæ af þeirra **Skrifum** og **Lærdoms Gerningum**; þo hefi eg helldur kiøred ad fylgia Professor vonAphelen i hans **Natur-Historie**, eptir þvi hans adferd er einna audvelldust fyri færfroda. Það er annars miøg torvelldt ad segia svo utþryckeleg. kenneteikn ser hverrar Jardar tegundar, ad hver einn fære skiled. J Sælande er varla nockur Bonde svo vis, ad leidt gete røksemder til, hvar fyrir helldur bruke eina Jardar tegund enn adra ad sæ þvi edur þvi Sæde i, reynslan og langur vane hafa vered þeirra vegvisare i sogdu efne. Eg vona minir Landsmenn, sem Gud hefur gæfad med godre skynsemd og eptirtekt, verde ei þessara eptirbætar, þegar



og kalla þá eina Leir-iörd (terra argillosa), enn þá adra Kalk-iörd. (terra calcarea).

I. Leir-iörden þeckiz þar af, ad hun brusar ei med nockuru suru Sallte (Salibus acidis), lodir vid tunguna og hardnar vid elldsins hita; er sæt, seig og iseit. Þesse Jerd er aptur fern slags.

a) Terra dissipabilis, edur svo kølluð Dupt-iörd myllz audvelldlega millum handanna; loder stalldan fast saman, þott hun se laatein i vatn edur ligge under regne.

b) Terra inflammabilis Torf-iörd er objett, brutnar i vatne og er gott Ellds-neyte.

c) Terra glutinosa er feit og limfull Jardar tegund.

d) Terra pictoria er ein þung iørd med ymsum litum, sem smelltiz vid mykiun elld.

II. Kalk-iörd brusar med suru Sallte og lodir vid tunguna.

Auk adur greindra Jardar tegunda er enn nu ein, sem er su almennasta, og kallaz humus atra, edur svört molldar iörd; hun hefir

---

þegar uppat er ad sæta, og þeir sialfir med kost gæfne og alvøru vilia leggia hønd a verked.





hefur nær því sømu eiginlegleika, sem adur i (a) og (b) er umgeted. Þesse Jørd er hin allrabesta fyri flestar Urtir ad vaxa i, ef hana er ad faa i hagkvæmum stad, og er hennar þvi optast geted; hun brukaz til flest allra Kaalgarda aburdar, blønduð med Øsku, nauta-Sauda-edur Hesta mykiu: annars er Væng-aska og Vængeð sialft godur aburdur a Tun. Nockrir godir Bændur, sem hafa litinn qvikfenad, bruka fyrir aburd molld og þusur brendar til Øsku, er þeir hræra saman i Urtagardinum, og verdur ad godu gagne.

§. 2.

Her ad auke er vitanlegt, ad Natturu visinda menn hafa med raun og rekum synt, ad Jerden hafe i ser sex slags Sallt-tegundir, hvar af hverin fyri sig tilleggiaz adgreindir eiginlegleikar. Einge efar, ad Jordin dregur daun af þessu sinu Fostre, og ad þad hefir stora hlutdeilld i hennar krapte og verkunum. Jørdin mismunar þvi eptir Salltauna adskilianlegu edle og Natturu.

1) Su Jørd sem er blønduð med þvi svo kallada alkaliska Sallte, kenniz best þar

 af,

 

af, ad hun brusar med suru Sallte, er ibeiſk þar leged hefur at tungunne um hrid, og madur hefur vellt henni fram og til baka i munninum.

2) Ef Iørdin er blendud med Victril, þar er hun bitur og beiſk ſem blek a tungunne.

3) Sallt-iørdina er audvelldt ad þeckia bæde af ſmeckunum og koſtnadar litilli raun, er hver einn getur ſialfur gert: til dæmes: madur tekur einn hneſa fullan af adur greindre Iørd, lætur i glas, hellir þar i vatne og gutlar þeſſu iduglega til ſamans; ſvo ſtendur þad i tvø dægur; þa verdur vatned ſkiært, og ſmackar af Sallte.

4) Salltpetur-iørden er miøg beiſk og tindrar løgd a elld: vot, ſmatt malin, ſmurd a einn ſlettan treſpon og þar a þurkud, verdur lik hrimfroſte. Edur hun profaz og þannig: Tak nockud af þeſſare Iørd, legg i eitt glas fullt med vatn, lat ſtanda nockura daga; ſya vatned ſidan þar fra og lat ſioda um hrid, hell þvi ſvo i eitt glas, ſem ſkal ſtanda tvø dægur edur lengur ohrært, ſvo ſkilſt Salltpeturinn fra vatninu.

5)

5) **Brennisteins-iørdina** þeckia allir af þesuum, einkum ef løgd er a elld.

6) **Alauns-iørd** hefur einn samandragandi krapt og bitran smeck; finnz ei allvida.

Þesse sidstu kenneteikn til ad þeckia Jardarinnar Nattturu, helld og hin vissustu og aud, velldustu fyrir hvern einn ad nema. Nockur viss merkis madur i Sælande, vid hvern eg hefe talad, brukade sønnu adferd, og er halldinn hinn klokaste Land-madur, hvar af hann hefir nu fenged æru og metord.

§. 3.

Ad svo giørdu sem sagt er, sundur-deiliz gardurinn i svo marga reita sem naudsynlegt þykir, ad hver Urt med sinne iardar tegund gete staded ut af fyri sig. a millum reitanna skal vera stigur þver fotár breidur eda meir, enn i hornenu a hverium reit þar bued er ad sa, skal standa Urtarinnar nafn skrifad a Sedel festan vid þar til uppreista tresspitu, ad þeir sem vidvæningar eru, rugliz ei eda villiz, ef mørgu er sad i hinn sama Gard. Vid hlid arnar a hverium reit reisiz upp nockrir hælar

til merkis fyrir adkomande, sem maaske af vadgætne kynnu gera þvi saida skada og troda þad nidur. Arfe og annad illgrese, sem aan aflaats vil uppvaxa og kefia Sæded, æ med øllu ad upprætaz, annars vex þad upp aptur ad vermu spore.

I einum enda gardsins er almenneligt ad gera einn reit, hvar i ymsar skrautlegar Urtir plantaz annadhvert teknar af merkinne, edur þeim verdur saad af þar til fengnu utlendsku fræe. Medfylgiande **Fyrsta Tabla** visar til dæmis hverneg þess haattar blomstrum prydelega getur orded nidur-radad; enn hver hellst blomstur setiaz i þvilikan reit til prydis, stendur i hvers eins valde. Utan til þar sem a. b. c. d. standa ritud, plaga minni haattar menn ad planta Sortuling, sem ægætliga vex i Urtagørdum, og verdur ad sidustu eins og eitt lited tre: en til ad setia innan i utvelur madur þau farlegustu blomstur sem faaz kunna.

§. 4.

Eptir þvi þad er sølldungis omissande þeim er vel vilia rækta sinn Urtagard, ad vita

hvilik

hvilik verkfære þar til eru hagkvæmust, þaa hefir mer synst þörf til ad laata afmaala eptirfylgiande, sem eru ad siaa aa annare Töblunne.

Verkfæred a. hvers blad er af iarne, brukaz mest til ad moka hauga, sem eru blandader med heye og mylsnu, þar þær almennelegu rekur ganga svo torvelldt i, ad madur maa neyta allra sinna krapta, ef nockud skal aagengt verda.

b. er ein almenneleg reka med storu og þykku iarnvare til ad moka sundur i reitunum.

Med Tre-sleggiunne c. beriaz hardir tad- og molldarkeckir sundur i Urtagardenum: er og naudsynleg til ad beria aa tunnum med, til lettirs fyri vallar vinnu folk, er annars brukar klaarur, med hverium lyted verdur aagengt.

Oxin d. brukaz til ad heggva skurde med gegnum gardinn, ad vatned naae utraas ef þarf.

e. er eitt lited verkfære af tre, med hveriu holur geraz i iordina, hvar jurtirnar skulu nidur plantaz.

Med hrifunne f. slettaz reitirnir og gardurinn hreinsaz.



g. brukar madur til ſkiptis vid b. ad plakka iørdena upp þar hun er miked hørd og ſeig.

Søgen h. er øllum kunnug.

i. er einn hæll, ſem er ſettur faſtur i iørdina og þar uppat unded Snære, er brukaz til leidarviſis til ad leggia gaangana i Urtagardinum eptir, ſo þeir verde iafnir.

k. viſar eina Capellu af tre opna ad nedan verdu med ſpelum: hun brukaz til ad ſetia yfir þau blomſtur er ecke þola mykinn Solar hita; tekſt þo burt aa kvølldin, ſe ei kallt aa næturnar.

l. og m. eru alkend verkfære.

Hiolbørurnar n. o. eru nytſamligar og omiſſande til ad aka molld og mykiu inn og ut ur gardinum.

p. er eitt glas edur klucka, ſem ſetiaz ſkal ofan yfir urtirnar aa næturnar, og um daga þaa kalldt er.

Vatns kannan q. brukaz til ad vøkva Urtirnar i myklum þurkum og Solar hita.

Fleire verkfæle edur aahølld, ſem tilheyra einum Urtagarde, heſe eg ei viliad inn færa,

ſekum

sokum þess þau flestu er her vantar, brukaz eiginlega til triaplöntunar og ræktar, sem eg i þessum Bæklinge leide hiaa mer um ad tala.



# Annar Capitule.

## Um þaa svo kolludu Mistbænkr edur Grodrar-stiur.

Orded Mistbænk hefur sinn uppruna af þvi Þydska orde Mist, sem þydir mykiu edur Skarn, og Banck, beckur; ætte þvi aa vora Tungu ad heita Mykiu-edur Skarnbeckur. Þeir Dönsku hafa utlagt orded af Þydskunne eptir þeim notum sem su stiptau med ser færir, og kallad Drive-Bænke. Mer syniz best, þar til adrir finna eitt hagqvæmara ord, er bæde meiningunne og uppruna ordsins sambydur, ad lata heita Grodrar-stiur, og er þeim þannig haattad sem fylgir:

Madur grefur nidur i jördina tvær edur haalfa þridiu alin diupt, en breidt og langt sem hverium syniz. Í þessa gröf er kastad ann-

ad



ad hvørt einungis hesta=; edur og nauta og hesta tade saman tvæggia ælna þyckt: þetta skal ligg= gia svo lenge þar til menn merkia ad hitnar i øllu saman, þa skal kasta þar ofan æ feitri molldar= og leir=iørd med mykiu vel sambland= adri, eitt qvartel æ hæd, og biidur þetta svo allt ohrært i 6 edur 8 dægur; sie þa eins heitt i allri Stiunni er rædlegt ad sæ þvi tilætlad var. Vid bædar hlidar og fyrir endana neglaz fialir, sekum þess ad dyngian skagar upp af iørdunne. Ofan yfir leggiaz glergluggar, sem Solin skal skina i gegnum, en um hædegis edur Midmunda bil takaz þeir af, þa hitinn er sem mestur, svo loptsins umræs næe ad vid= urqvæykia Urtirnar, en strax sem kolnar leggiaz aptur uppæ. Millum Jardarinnar og glug= ganna, skal svo miked bil vera sem þær vaxa hæst. Rudurnar i gluggunum eru þvi betre sem þær eru stærre, svo Solar varminn fære þvi friælsare adgang.

Nytsemе greindrar Grodrar stiu er þesse, ad hun snemma æ vorin framleidir þær Urtir er þurfa ad plantaz um, svo þær ed ecke kunna ad sæz i einum Urtagardi undir berum himne

fyrr

fyrr enn i Júnio, eru þar þegar sprungnar upp af iørdunne i Grodrar=stiunne, og hæfilegar ad setiaz ut i sialfan Urtagardinn strax sem hlynar. Hvar fyri maiske nockrar Urtir bera fræ um haustid, sem hesdu annars ordid ofrioſamar og til litilla nota.

Þegar madur vill sá Matar Urtum i Grodrar stiuna, til dæmis Snemmfengnu Blom- edur Hvitkaale, og s. s. v. er vel athugande ad Jørdinn se ei ofheit edur ofkelld, þvi þar kvelst Sædid i Modurlife; þar fyrir er best, ef mogulegt er, ad rata mundangshofed, eptir þvi sem þeirra Urta Náttura utkrefur er saz eiga. J sama maata mega ei helldur Urtirnar ad- dreifaz edur vekvaz med kelldu vatne, allrá sist þar mieg heitt er um Middags leite; þvi skal madur alltid laata standa vatn i einum Saa edur Kerallde a mote Solu, og taka vatnid þar ur til ad vekva Urtirnar. Ef Solin skin ecke i nockura daga, þar skulu gluggarnir standa lokadir til hálfs þann fyrsta og annan dag sem hun skin; annars visna Urtirnar.

Þridie





# Þridie Capitule.

## Um ymsra Urta medferd. Item þeirra nytseme til Bu-dryginda og Læknisdoma.

§. 1.

Beiskiu-gras, Abrød, Abrotanum.

Þesse Jurt þolir ecke mykinn kullda i fyrstunne, en vex sialfrasa i 10 og iafnvel 20 aar, þar sem hun einu sinne hefur fest rætur. Take madur rotina og setie i goda feita molld blandada med mykiu og Sande, þaa vex hun betur, enn sie greinin alleina fyrir utan rot plentud.

Læknis nytsemi þessarar Urtar er su, ad hun hoflega inntekin er god vid Modur- og Nyrna sott. Fræed smaatt maled inteked annad hvert soded i vatne edur osoded, drifur staded kvenna blod, Barna fylgiur, og lettir stuttum andardrætte. Sumir segia ad þar sem hun er aa-dreisd,

dreifd, rotne haared ei lengur af. Item hindre møl og orma fra þvi ad giøra tion klædum.

§. 2.

## Anis. Anisum.

Skal saz i goda feita, vel plædga, þurra og sandi blandna iørd moti Solu i Maj edur Juni manade. Fræed skal liggia hallst dægur i bleyti adur sad er. Illgresed a med kostgæfne ad upprætaz bæde syrst og sidast. Anisinn vex i Sælande, en er miked faugætur. Busnot hans eru flestum alkunn, nefnelega steyttur saman vid pipar, er dreifdur a plockfisk, edur og madur hrærir edik og hveite saman, þo mar þad ei verda þyckt, lætur þar i Anisinn, blandar vel saman, og strykur braudin yfir þar med adur þau eru bøkud.

I Læknis kunstinne er Fræed brukad sem eitt gott medal vid andsylu, vindgange i maganum, briost ervide, kveisu, andvøkum og þorsta: þad styrkir hiartad, eykur miolk i kvenna briostum, og mykir hosta. Hyppocrates rædur ad brenna Anis syrer vitum a efriosomu kvenn folke, og meinar þa skipiz um.

§. 3.



§. 3.

## Agurkur, Gras-Eple, Augurker edur Agurker.

Cumcumer vel Cucumis Sativus esculentus.

Agurku kiernum er saad annad hvert i Grodrar-stiuna, tveggia fingra diupt, edur i feita lausa ierd, snemma i Junio, a þeim stad er veit moti Solu, og i hlie fyri nordan vindum. Millum hverrar einnar skal ei vera meira enn qvartels bil. Þegar þurrvidri er maa ey forsóma ad vatna þeim hvern dag. Gamlir Agurku kiarnar eru betri enn enir uyiu. Þær sem ætladar eru til ad saaz skulu næsta aar eptir, standa ohrærdar þar til lidur Michaelis messa, og er kolnar, skeraz þær af, leggiaz i keralld og geymaz þannig haalfan Maanud; eru sidan þveguar i vatni, þurkadar og geymdar þar til saaz skulu; enn aadur plaga flestir ad leggia þær i bleyti i nyia miolk nockra daga. Af þeim Agurkum er snemma vaxa, maa tilreidaz Salat, og þad medan þær enn nu ei hafa naad fullum þroska: þaa ytstu hiuun flysiar madur af, sker sidan Agurkurnar i þunnar flisir, hellir svo vin-

edike

edike (edur i þeſs ſtad ſyru) med ſallte og pipar yfir þær, og lætur ſvo ſtanda 1 dægur. Hinar ſidare ſalltaz nidur aa þennan hꜳtt: Tak vatn, hveite=ſallt og lited af ſalltpetre, ſiod þad til ſamans, legg Agurkurnar i kerallð, hell hreinu vatne þar i og laat ſtanda 14 dægur. Tak ſidan aptur hreint vatn, og laat enar ſömu liggia þar i ad nyiu 2 dægur; þurka ſvo um hrid, legg þar eptir eitt lag af Agurkunum nidur i hreint nytt, þiett qvartel, og annad lag af ødrum heilnæmum Urtum, til dæmis: Peturſeliu, blodberge, og ſ. ſ. v. hell þar aa ofan uppſprettu brunns vatne med nockru af godu ſallte i; laat ſidan qvarteled vel tilſlegid og ſibendt ſtanda ſvo lenge ſem beſt þikir hendta. Þannig tilreidd brukaz bæde Peturſelian og Agurkurnar afvatnadar i Salat, ſem aadur er ſagt; item ſaxadar, ſodnar i ſmiøre aaſamt blautum fiſke. Læknurum þikir ſem Agurkur ſeu eige heilnæmar ſekum þeſs þær melltiz ſvo torvelldlega i maganum; þo tilreidiz þar af ſvaladryckur ſem godur er ſagdur i raſande ſiukdomum, þar hann dempar þeirra oſſtopa og flytir þeirri næturlegu framraas (fluxu naturali).



§. 4.

## Fruar-jurt *) Balsam, Balsamita.

Plantaz af sundur risnum rotum med nyiu tungle um vored snemma, her um eina spønn hvørt fra ødru. Pad vex og vel dafnar þo kallt se. Rotin maa standa kyr ute a vetrum; en bløden afsplockud eru einkar god vid nidurfalls-sott, kveisu-sting, vatns-sott og sullum sem vaxa i lifrenne.

§. 5.

Ertur eru marg slags, svo sem:

1) Hudlausar Ertur, Skal-løse Erter, Pisum Leptabolum.
2) Snemm-sadar Sykur-Ertur, Tidlige Sukker-Erter, Pisum Præcox.
3) Belg-Ertur, Frøe-vipper, Pisum umbelliferum seu variegatum.
4) Graa-Ertur, Graae Erter, Pisum maculosum.
5) Grænar Ertur, Grønne Erter, Pisum fructu viridi.

6)

*) Þetta nafn er dreiged af þvi þydska.

6) Kriupande, Krybe-Erter, Pisum Leptalobum repens.

7) Svina Ertur, Aspalathus ɔ: Robinia.

Allar þessar Erta tegundir vaxa i hverslags iørd madur vill; þo best i sand-iørd, sem þeirra nattúru og edle syniz samqvæmust. Þær mega saaz strax sem klakinn er ur iørdinne; og svo þær laate sig þvi fyrr i liose, skulu þær liggia i bleyte eina nott aadur enn þeim er saad.

Hudlausar Ertur eru sætar og matbuaz ad øllu leite eins og þær eptirfylgiande.

Af Snemmsaadum Sykur-Ertum, til hverra saad verdur þriaa heitustu maanudena af sumrinu, geta menn tilreidt aagætan rett, ef þær fyrst eru sodnar i vatne, og svo þvi vatne hellt af, þar næst aptur settar uppaa elldinn, og sidan ad nyiu sodnar i miolk edur rioma med ødrum grænum jurtum, hvar til almennelega heyrir ad menn borde sauda-kiøt nytt, edur salltad, sem sodet hefur vered ut af syri sig.

Sykur-Ertur luckaz opt vel þau tvø fyrstu aar, ef þeim er saad i Urtagardinum i hlie vid



kullda, og mioir stiakar vid þær uppreistir, ad ei falle ut af þaa þær taka ad þroskaz; þo skal nockud bil vera millum hverrar. aa hinu þridia aare umbreytez fræed, og verdur gangliteð.

Þær almennu Ertur (er vaxa aa merkenne aan storrar varateektar, og til vor flytiaz) matreidaz þannig, þa þær enn nu eigi eru fullvaxnar: þegar þær hafa soded svo lenge i vatne, ad belgerner taka ad fliota ofan aa, veidir madur þaa upp med sleif, hvar þær sidan i hreinu brunnvatne, þangad til þad litaz ei lengur, hellir þvi þaa af, og sydur svo Erturnar i smiere med sexudum Kvennafroar (§. 37.) edur Petur-seliu rotum og lauk, svo lenge sem þarf.

Grænar Ertur mega saaz opt aa hveriu sumri, og vaxa betur ef aadur hafa leged um hrid i Saudatads vatne: þær tilreidaz eins og sagt er um Snemmsaadar Sykur-Ertur.

Þær aadur nefndu Ertur i No. 7. eru almennelega gefnar svinum, sokum þess þau þrifaz vel af sliku fodre. *)

Ad

*) Um þennan aavøxt geta Landar minir sagt, ad vel mege þeir hans aan vera, med þi faair edur eingir

Ad þvi leite sem Erturnar hafa einn opnande krapt og lina hosta, mega þær ætitaz heilnæmar; enn med þvi þær auka o-roa i maganum, hvar af opt reisa sig þyngre tilfelle, þa er ei rædlegt ad hafa þær til daglegrar fædu.



eingir hirda um ad eiga þess hattar kindur, sem þo vel mætte takaz, einkum vid siævar siduna, og iafnvel upp til sveita, hvar þan mættu ganga sialfala fram æ dølum um sumartimann, en fodraz æ vetrum med mode, skolavatne, dreggium, onytum Jardar-eplum og allrahanda ohræse sem hellt er ut æ annad bord, og eige er til annars nytt. Þvi være oskande ad þetta svar felle af sialfu ser, og menn villdu leggia meire stund æ ad hagnyta ser Guds gæfur, enn ædur hefur plagsidur vered. En þott svinin syniz eigi vorum Løndum ad vera girnilig til ætu, þa bygg eg þo svina slætur kynne til godra nota ad etaz med Kælgrautum, einkum i miolkur-leysenn æ haustem. Og eigi fyriverda sig adrar þiodir, sem efna betre eru enn ver, ad leggia ser þau til munns, iafnvel þo ønnur Lifs medøl hafe ærin til. Ad faraz af hungre fyrir eigen forsomun og adburdaleyse er bæde oskapligt og omannligt.



## §. 6.

## Sigod, Fænnikel, Fæniculum.

Til þessarar Urtar sæ flestir snemma æ vorin i þeim stad er hun maa standa ohræerd, og ei umplantaz. Æ haustin er best ad skera bledin og þær smæau greinir af, en rotin mæ standa til næsta sumars; þvi æ medan Urtenn hesur ei bored fræ, er henne ohætt, og rotnar ecke, enn helldur sinum krapte bæde vetur og sumar.

Urtin brukaz til Salat med edike, og i stadinn fyri Kaal edur æ samt þvi: hun er heilnæm fyri brioftveika item þær er hafa Fransos og bolu; en fræed soded i vatne og drucked, uppleysir Stein. F. Hoffman hrosar þvi og vid Vatnssott hoslega æ sama hætt innteknu.

## §. 7.

## Gras-laukur, Græs-løg, Allium Schænoprasum.

Gras-laukurinn (edur sem nockrir kalla Purlauk) vex þær hønum er sæd snemma æ vorin i goda og feita sand-iørd. Midt um sumared, er bleden taka ad verda bleik, skal hann umplantaz. Lin-

Linnæus segir, ad þesse laukur smaatt saxadur se etinn ut undir blautum fiske; en hiaa Dønum er hann mest brukadur i Kiøtsupur og Kaalgrauta.

§. 8.

### Gular rætur, Guule Rødder. Daucus vulgaris sativus flore luteo (Cavota).

Vaxa i lausre sand-molld, hvørt sem helldur vill i Urtagardinum eda i Grodrar-stiunne snemma aa vorin. Rumt bil skal vera millum hverrar, þvi þær verda storar, sem skedur þaa madur klippir toppinn af, her um eina spønn fraa iørdenne.

Blødin eru god vid Lungnasott, og koma mønnum til ad sveita. Ræturnar brukaz þveg nar, skafnar og sodnar i Kiøtsupum, item med blautum fiske.

§. 9.

### Hvitur-laukur, Hvid-Løg. Allium sativum. ɔ: allium vulgare officinarum.



Er tvenn slags, nefnelega sat eine er fyri skemstu var talin, ber hvert aar:fræ.

Til hans skal sat hid fyrsta mogulegt er, ohiett i þurra iord, hverium þo maa vatna dag-lega framan af. Þad fyrsta aar vex hann lited, og hlytur þvi ad standa kyrr um veturinn, þaangad til i Junio, þaa plantar madur hann um aptur, laangt i millum hvers, og þriggia fingra diupt, svo verdur hann stor um haustid, og heitir þaa **Lauks høfud**, er menn svo at sigkomed upptaka þurka vid solu og hengia sid-an einhver stadar upp. Hiaa mørgum þiodum er saa Hviti laukur i afhallde: sumir borda hann med Smiøre og braude. Moskovitar og India-menn hrosa hønum einnig søkum þess hann styrkir magann, stillir kveisu, og eykur Matar-lyst hoflega brukadur. I Hungaria rike er hann halldinn ed besta medal þaa er manndaudi og drep sottir ganga.

Su ønnur tegund af hvitum lauk mætte heita **Gydinga laukur**, aa Latinu Allioprasum: hann utkrefur sama uppfostur sem hinn fyrre, og þar i betre, ad Fræed og laukurinn færir sømu not bæde til matar og lækninga:

einasta

einasta er athugaverdt þat hann umplantaz, ad su sida horse upp hvar af Stilkurinn a ut ad springa, og þa kemur hann i lios innan fætrra daga. Gydingar setia upp a hann Brennevin, og drecka ad morgne dags, hvar af sumir meina þeirra andlits farve kome sem olikur er annara þioda. Doct. Buchwald hefur meint hann ætte vid stein-sott og ødrum þess kyns sinkdomum, sem siaa maa af hans Specim. Medico Practic. Botanico. Þeim sem eru þurrar Natturu, er hann framar til ills enn gods, þvi hann veikir augun, uppvekur þorsta og Høfud-verk. Eingu ad sidur syniz Horatius ad hafa lastad Hvita Laukinn um of, er hann qvedur þannig:

Parentis olim si qvis impia manu
Senile guttur fregerit
Edit cicutis allium nocentius.

Þad er:

Þeim lise Fedra bæger burt
Beriz sorgar hraukur,
Og hvørre verre Eitur Urt,
Mu Hvitur Laukur.



§. 10.

## Ysop, Hyssopus.

Skal plantaz af sínum eigin rotum, sem þar til eru fengnar hiaa utlendskum. Jerdin maa ei vera þett kringum ræturnar: Urtin þolir og liteð edur eckert vatn, iafnvel i mesta Solarhita: hun styrkir magann, og er heilnæm fyri brioſtveika. Svo sem siaa maa af þessu verse:

—Prodest cunctis pulmonibus sumta qverelis.

edur:

Ved Lungna-sott er besta bot
Og bølid mykir stinna.

Siode madur Urtina i vine, og ride aa, þaa uppleisir þad stadnad blod, dregur bolgu ur Saarum og læknar þau *). Seydis vatn af Ysope eydir og haalsbolgu se hann skoladur þar med. Blomstrenn sodenn i vatne aalegdreisa merdu blode og blaama.

§. 11.

## Laufnargras, Karse. Nasturtium vulgatum hortense. *Linn.* Lepidium.

aa

*) Siaa Buchw. Specim. Med. pract. botan.

ꜳ vorin snemma ſaair madur til þeſſarar Urtar i ſialfum Urtagardinum: hun vex vonum betur þo kallt ſe, ſpringur ut og ber frꜳ ſama ꜳr. Adrir ſꜳ til hennar i Grodrar-ſtiunne, og þad hvørn fiortanda dag *). Urtin brukaz med þeirre ſvo kelludu Miolkur-jurt (§. 24.) til Sallats og ꜳſamt grꜳnu kꜳle ſmꜳtt ſkoren i grauta. Fræed ſundurknuſad innteked flytir ſoſtre i ſædingunne.

Simon Pauli i ſinne Dønſku Urtabok (Flora Danica) rædur ad menn bruke þeſſa jurt vid mørgum ſinkdomum, en þo einkum ſkyrbiuge, og ete idulglega i Saupe, edur ꜳ framan ſkrifadan hꜳtt. Hun læknar einegen ſkurfur i Høfdenu ef ſmꜳtt ſexud ſoden i ſvina yſtru er ꜳridenn.

## §. 12.

## Brioſtheill **), Korvel edur Kørel. Chærophyllum ſativum.

Til þeſſarar agætu Urtar mꜳ ſꜳ bæde ſeint og ſnemma ꜳ vorin, ad vaxanda edur nyiu

*) vid. Zinckens allgemein. oeconom. Lexicon.
**) Hier fylger Reuta nafne.



nyiu Tungle, og þad i hverium mánnude. Þa frǽd er full-þroskad, verdur þad svart, og þa plockar madur þad af, hreinsar, þurkar og geymir til sins tima.

Urtin er god med Grǽnu-kále til ad gera grauta af; og þar ad auke er hun brukanleg i Kiøtsupum, pylsum og blodmør smátt søxud. Af Lǽknurum er hun halldin hid besta medal fyri þa er spyta blodi: hennar styrkiande kraptur hefir optliga á skømmum tima vidurqveikt vanmegnar sottlera manneskiur, og lǽknad eptir á fylgiande klǽda og utbrot.

Þessi Urt soden i søltudu smiøre á samt Peturselin og heit á-løgd fyrir nedann nablan sveipud i lerepts poka greider þvagráts framar enn ønnur medøl.

Þad Spanska Kiørel edur Myrthis major vex yfrid seint; þo þroaz rotin ár af áre; á vid briost-kølldu og hreinsar bloded.

## §. 13.

## Kongs-Salat, Konge-Salad. Draco hortensis, ɔ: esculentus.

Plantaz af rotenne i goda Jørd nidursett;

vex

vex og einnig af fræe, þar til þess er snemma saad um vortimann.

Saman vid annad Salat er nefnd Urt halldiun af buendum einkar god; til annara retta arsamt med ødrum Urtum er hun ei helldur obrukanleg; þvi hun flytir mellting matarins, drifur vinda og stadin klæda føll kvenna. Item eykur matarlyst. Enskir læknarar tilbua einslags vatn af þessare Urt, sem halldest er gott hiaalpar medal moti drepsottum og skædum sinkdomum.

§. 14.

## Husfreyiu Kaal, Kruset Kaal.
Brassica fimbriata.

Saaiz annadhvørt i Grodrar-stiuna edur reitina uti i Urtagardinum: þad utkresur feita iørd, og vex aa skømmum tima: er best til ad gera af grauta þaa þad hefur frosed nockura stund ute: blodhreinsande og myked heilnæmt.

§. 15.

## Snid Kaal, Snit-Kaal.

Med-



Medhandlaz og tilreidiz sem hid næstalda: maa standa ute um vetur og skytur greinum næsta sumar.

§. 16.

## Hvittkaal, Hvidkaal edur Hvid Hovedkaal. ɔ: Cabudz-Kaal. Brassica capitata alba.

Utheimtir goda feita sandblandada iørd, skal saaz a þeim stad sem liggur best vid solarhita, þad fyrsta møgulegt er med fullu tungle. Þegar þad tekur ad skaga upp af ierdinne, rætir madur þad upp og plantar aptur med fullu tungle, rød vid rød, og skal alnar bil vera audt millum hvers eins. Ef þurt vedur er, geriz hola nockru megin vid hveria Urt, og þar i hellir madur vatne tvø edur þriu kvølld samfleytt, og optar ef þursa þykir. Til þess kaaled vaxe ei alleina a hædina helldur og einnig gilldni, er naud-synlegt ad leggia þad ut af a hlidena, og ausa molldinne upp med leggnum. (Þad kalla Danir at Hyppe). I September edur October maanade adur miked frost kemur, er best ad skera Kaaled af, leggia inn i hus korn,

hvar

hvar þad nair ad þorna, þo ei hvert ofan a annad, þvi þa funar þad og missir sinn krapt. Nockrir segia ad þad fræ, er teked verdur af þvi Kaale, sem vex i Danmørku, Noregi og Sviariki, se eigi gott til ad saa aptur, inn kaupiz þessvegna aarlega nytt fraa Hollande edur Þydskalande. Þeir sem sasua sinu eigin, gera þad a þennan haatt: J September maanade, svo sem adur er sagt, grafa þeir þau stærstu, fløtustu og breidustu Kaalhøfud upp med rotum, hengia til þerris i hus, hvar vindur blæs inn, og laata høfudin venda nidur; plocka sidan af þau visnu blød, setia svo høfudin nidur i iørdina hvørt vid annad, þar sem kulldinn nær ei ad koma til þeirra, og svo standa þau til þess um vored; en þau visnu bløđ reitaz alltid med athuga af smaasaman. Þa er vora og hlyna tekur, setia þeir høfudin ut i Urtagardinn og leggia molld yfir þau, og þad svo ad efstu bløden stande alleina upp ur, skera sidan kross i midiuna a hveriu høfdi, en þo ei svo diupt ad hiartad raskiz. Nær þau nu taka ad vaxa, binda þeir eina styttu vid hvert høfud, svo þau leggiz ei ut af, klippa sidan þær smaau greinir

af,



af, og laata Høfudgreinina alleina bera fræ. Þaa þad er fullvaxed grasa þeir Kaaled upp aptur, laata þad þorna, og gnyia sidan millum handa ser, svo sellur fræed af, og geimiz til þess menn vilia sæ.

§. 17.

## Blødru=Kaal *), Safoy=Kaal edur Savoye Kaal. Brassica alba crispa.

Vex i sømu iørd og medhandlaz aa sama hætt sem sagt var um Hvit=Kaal.

§. 18.

## Raud=Kaal, Rød Hoved=Kaal. Brassica capitata rubra.

Utkrefur sømu varatekt og fyrr var talin, ef vaxa skal.

§. 19.

## Blom=Kaal, Blomm=Kaal. Brassica cauliflora.

Saaiz

*) Eg kalla **Blødru=Kaal** vegna þess bløden eru hrückott, og lita ut eins og hleypt se upp aa þeim med smaa blødrum.

Sæiz ed fyrsta hlynar i goda iørd med fullu tungle, og sem þad fyri nockru er komed upp af iørdinne, skal þad umplantaz ræd vid ræd, eins og her utvisaz ⁝⁝⁝⁝⁝ og ½ alen vera millum hverrar plønt; Ef þurt er, skulu menn vatna þvi þriu kvølld hvert eptir annad, og sidan annadhvert kvølld i þriaa daga. Þegar plantad er maa madur naakvæmlega taka ser vara, ad ræturnar ecke beygiz aa nockurn veg yfir þad sem naatturlegt er, og þesse regla er einneigin athugande um allar urtir. Aa haustenn er þad somu kierum undirkastad sem skrifad er um Hvitt-kaal.

Fræed verdur ei fullvaxed eptir sumra meiningu, svo nordarlega i þessare heims-aalfu og er þvi vissara ad kaupa þad aarlega hiaa Utlendskum.

## §. 20.

## Grænt-Kaal, Grøn-Kaal. Brassica rubra vulgaris.

Sumir kalla þetta Raudt-kaal, af þvi leggurinn er raudur, en adrir Grænt-kaal søkum þess bløden eru græn, og getur hvørtveggia



stadiz. Það er þess hattar sem almennelega vex hia oss i Islande, og ræktaz a sama hatt, og þær adur umgetnu kaaltegundir.

§. 21.

## Svia-Kaal *), Kaalrabi over Jorden.
## Brassica Gongylodes.
## Næpu-Kaal, Kaalrabi under Jorden.
## Rapobrassica.

Til Urtarinnar saaiz annadhvert i Grodrar-stiunne, edur uti i Urtagards reitunum, og þar eptir plantaz um i leir-iord. Rotina, sem er sæt, getur madur geymt allan veturinn: hun er af busolke mikils metin, en blødin eru o-æt.

Svo naudsynleg næringar-medøl sem fiski-saung, naut, saudir, svin, endur og þvi umlik eru øllum mennum; Svo omissande er buanda folke ad rækta Maturtir i sinum eigin Urtagørdum, svo vel til busdryginda, sem til ad vardveita saal og likama fra sottum og sukdomum. Þannig er sagt Romveriar i 6 hund-

rud

*) Nordarlega i Sviþiod er þetta Kaal meira meted enn annad, og þvi hefe og gefed þvi þetta nafn.




rud ar hafe alleina noted Kals i øllum tilfallande krankleikum, og orded gott af. Sa navnfræge Cato tok og þad rads er drep sottin geck, ad hann gaf øllu sinu hyski Kal ad eta, og frelsade þannig, sem sagt er, fra yferhangande tione. Nu a vorum døgum er Kaled svo almennt, ad bæde rikir og fatækir leggia ser þessa hollu og agætu urt til munns, og tilreidaz þar af adskilianlegir rettir, svo sem til dæmis: Madur tekur annadhvert Blødru-Kal edur Hvitt-Kal, sker þad smatt i sundur, en kastar burt þeim storu hørdu leggium, sydur i hreinu vatne þar til meyrt er orded, kreistir svo vatned ur þvi, og leggur Kaled sialft i steikara pønnu edur pott; lætur þar i smiør, rioma, lited af sma sallte, og knesa sullan miøls, steikiz þad svo um hrid vid hægan elld i adur greindre pønnu med loke yfir sem hristiz þess a mille svo maturinn nae ei ad brenna vid. Surt-Kal verdur þannig tilbued: Madur skilur þa storu legge fra, saxar Kaled smatt og sydur i vatne, þar til þad verdur meyrt, sidan hellir madur vatninu ut, og lætur aptur saman vid Kaled svo miked smiør, miøl,



vinedik (syru) og malid kumen sem med þarf. Svo er þad rett tilbued.

Þegar menn gera grauta af grænu Kaale, þaa er best ad hella þvi vatne ut sem þad fyrst er soded i, setia þad sidan aptur upp yfir elldinn, og sioda ad nyiu i ødru fersku vatne, med litlu af smiøre, svina- edur sauda-kiøte i. Þaa eg var staddur i Sælande, let eg bua til velling af miolkur misu, Kaale og ødrum Mat-jurtum, og þotti øllum saa rettur godur þott ei være veniulegur. Þann rett kallade Husbonde minn Olafs Supu. Litlu sidar brukade eg miolk fyri Juck, og vard þar af þyckur grautur: þeim sama var midur hrosad. Nu med þvi þesse tilreidsla og fleiri þvilikar standa i hvers eins vallde eptir efnum og hentugleikum, þaa vil eg ei uppreikna fleire rette er tilreidaz af Kaalenu, en alleina geta hvar til þad af Lauknurum er hallded nytsamlegt, sem er, ad vekvinn skaalsur uppleysir slim fraa brioftenu, en taugunum tileggz bindande kraptur, og þar af et þetta ordtæke komed:

Jus caulis solvit, cuius substantia stringit.

Þad

Þad er:

Leysir blada brioste frá,
Binda taugir saman,
Vøkvc, hryglu, þela og þrá;
(Þad er meir enn gaman).

Ener ed syngia svo lenge ad þeir verda haasir, sioda Kaaled i vatne, og drecka þad blandad med hunange. Kaalløð løgd aa utvortis skeinur, draga ur svida, hreinsa og þurka upp saared.

## §. 22.

## Kvenna hnoss *), Krusemynthe. Mentha.

Vex þo kalldt se i samaslags iord sem Ysop (§. 10), og medhandlaz aa sama haatt. Menn plaga ei, svo eg vite, ad bruka þessa Urt i mat; en i læknisdomum eru hennar kostir alkunnir, nefnelega: utvortis aaløgd i heitum lerepts poka sodnum i syru, uppleysir stadna miolk og eykur sømu i kvenna briostum.



*) Einge iurt næst Balsamenu er meir elskud af kvennfolke enn þesse, og þvi helld eg hana rett skirda.



Atta dropar af olíu urtarinnar i vatne innteknír auka kvennſeme. Kvennahnoſs brenne víned ſtillir qveiſu og línar takverke.

§. 23.

## Kumen, Cuminum.

Saaiz i goda ſeita iørd; vex allvel þo kalldt ſe: ad lidnum þrimur aarum ſkiptir madur fræe. Ræturnar eru aagætar i ſupur, en blødin ſnemma aa vorin ſaman vid grænt Kaal. Fræenu blandar madur i braud, blodmør og pylſur. Þad læknar høfud ſvima og qveiſu; aa vid uppþembing og linar hoſta. Þad ſvo kallada Eingia Kumen vex af ſialfu ſer allvida vid aar og lækiar backa, og er þeſs nytſeme ei minne enn hins fyrra. J Lund i Skaane, hvar Kumen ræktaz til høndlunar, og Tunnan er ſeld fyrir 18 Dale i Silfurmynt, edur ſex Rikisdale Courant eptir Dønſkum reikninge *), vex þad betur i þurre iørd; en her i Danmørku luckaz ei ſu adferd. Þeim Svenſku hefur beſt tekiz aa fylgiande haatt: Þegar iørdinn er vel undirbúin, ſaair madur ſeinaſt i Majo Kumeninu i Urta=

*) Siaa þann Svenſka landmann.

Urtagards reitina, og er lidur ad midsumre, tekur madur þad upp, hreinsar iørdena sem upp er grafin, og setur þar ræturnar aptur nidur i, þo ei nær enn qvartels bil se milli hverrar, þristir iørdenne aptur ad þeim, og vatnar sidan. Loksens sáir madur á plaþed sande bløndudum med Kumens fræe, þad styrkir næsta áárs vøxt; Svo er ervided til enda, og gods áávaxtar ad vænta eptirfylgiande áár.

§. 24.

## Miolkur jurt, Lactuk, Laduck.

### Lactuca.

Laducker eru margslags, svo sem
Grøn og Guul Pral-Lactuk.
Spansk og Romansk Lactuk.
Prinþen Kroplactuk.
Berliner Kroplactuk.
Grøn Ungersk Lactuk.
Brun stor Kroplactuk.
Kruset Kroplactuk og s. s. v.

Til allra þessara sáa menn á einn hátt, annadhvørt snemma á vøren, edur epter hendinni hvern máánud, medan heitt er. Sem

þær nu taka ad vaxa, og hafa fenged 5 eda 6 blød, plantar madur þær um, og lætur 1 qvartels bil millum hverrar. Sumir klippa hálf blødin og rota endana af, meinande þær vaxe þa betur. Ef fræed hefur leged 2 dægur i vatne, og er svo þurkad aptur ádur þvi er sáad, sprynga þær myklu fyrr ut. Sumir leggia fræed i brennevin, og meinga molldena med kalke og hestatade, hvar fyri þær og sprynga ut at 4 dægrum. Af øllum Husbændum hefur þesse urt vered mest meten, og maa þvi ætitaz sem Kongur hiá ødrum Maturtum; þo veit eg ei hun se i ødrum rettum brukanleg en supum og Salate. Þeir gømlu átu þessa urt sidst matar ádur til hvilldar var genged; enn á døgum Domitiani Keysara breyttiz su venia, þa Romveriar báru hana fyrst fram af øllum rettum.

Simon Pauli skrifar og ad Schola Salernitana hafe rááded þeim er elska átmat framar ødrum, og drecka lited, ad eta Miolkur-jurtina fyrst matar; en sie ei þess kostur, þa ann hlifdar ad drecka opt og lited um Maaltidina, sem her af er aud sied:

Inter

Inter prandendum sit sæpe parumqve
bibendum.

Þad er:

Ad heilsa þin sie heil oskerd
og hafir rosemd þecka,
watt nær middags etur verd,
opt og litid drecka.

Falliz menn ei a þetta, rædur nefnd Schola Salernitana ad drecka adur til bords se genged i þessu verse:

Ut vites pœnam de potibus incipe Cœnam.

Svo hafner Sorg og hardre pin
(Ad hoskn dæme recka)
Til upphafs matar wattu vin
wavallt kvølldum drecka.

Galenus segir, ad greindrar urtar fræ soded i vatne og innteked kvølld og morgna fastande, eige vid Sædfalle (Gonorrhæa) og Nætursleckinum (pollutionibus nocturnis).

Fyrir ungmenne segia Læknarar hana mykt ed heilnæma, sokum þess næringar vokvarnir (chylus) betrez og lagfærez þar vid: Hun eykur brioſta miolk, og er god vid svefnleyse. Sumir meina hun gere karlmenn dug-lausa til Amors

 verka

